# DÖNSK LESTRARBÓK

HANDA

**UNGLINGUM.**

---

Útgefin af

**Svb. Hallgrímssyni.**



---

**Akureyri 1856.**

Prentuð í prentsmiðju Norður- og Austur-umdæmisins,
af H. Helgasyni.

# Formáli.

Þegar jeg gaf út hina „dálitlu dönsku lestrarbók“ árið 1853 hjet jeg því, ef hún fengi nokkurn veginn góðar viðtökur, að gefa út aðra lestrarbók nokkuð fullkomnari. Nú get jeg eigi annað sagt, enn að bæklingnum væri vel tekið, því 12 hundraða upplag seldist hjer um bil á ári. Síðan hafa margir spurt eptir honum, og því hefi jeg nú ráðizt í að láta prenta nýja lestrarbók, stækkaða um helming; vona jeg að hún geti verið námfúsum unglingum til ljettis og leiðarvísis, er þeir reyna til „að komast ögn niður í Dönsku“. Lengri formála en þetta þykist jeg eigi þurfa að hafa; en það er sjálfsagt að enda hann með þeirri ósk, að bókin geti verið þeim til gagns og gamans, sem hún er helzt ætluð.

Akureyri 25. dag ágústm. 1856.

Svb. Hallgrímsson.

# Dálitlar lestrarreglur.

Hin danska tunga er töluð af þegnum Danakonungs, þeim, er kallaðir eru **Eydanir** og **Jótar**; hún er sprottin af norrænunni, sem töluð var í fyrndinni á Norðurlöndum; þess vegna er hún líkust íslenzkunni og svenskunni, en miklum mun ólíkari þjóðversku, hollenzku og ensku; smátt og smátt hafa unnið hefð í dönsku máli ýms orð úr grísku, látínu og frakknesku og ýmsum öðrum málum.

Bókstafirnir í dönskunni eru:

| | | | | | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| **a,** | **aa,** | **b,** | **c,** | **d,** | **e,** | **f,** | **g,** | **h,** | **i,** | **j,** |
| — | — | be | ce | de | — | ef | ge | haa | — | jod, je |

| | | | | | | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| **k,** | **l,** | **m,** | **n,** | **o,** | **p,** | **q,** | **r,** | **s,** | **t,** | **u,** | **v,** |
| kaa | el | em | en | — | pe | ku | er | es | te | — | ve |

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| **x,** | **y,** | **z,** | **æ,** | **ö.** |
| eks | — | zeta | — | — |

1. Hljóðstafirnir eru:

a, e, i, o, u, y, æ, aa, ö.

**a** hljóðar eins og ísl. a og hefur skjótt atkvæði í sumum samstöfum (t. a. m. Stad, borg), en seint í sumum (t. a. m. Stat, ríki).

**e** er optast borið fram eins og i eða e í íslenzku; **ee** er víða eins og e með seinu atkvæði (t. a. m. Steen, steinn); e á eptir hljóðstaf seinast í samstöfu heyrist opt ekki í framburðinum, með því það er einungis sett til að sýna, að stafirnir fyrir framan það hafi seint atkvæði (t. a. m. gaae lesið go, að ganga).

**i** er ýmist borið fram eins og ísl. í (t. a. m. min les mín, minn) og er þá stundum ritað **ii** (t. a. m. Viin, vín) eða sem i (t. a. m. finde les finne, að finna).

**o** er ýmist borið fram líkt og ísl. ó, en þó með nokkru ú-hljóði (t. a. m. Blod, blóð), eða eins og ísl. o (t. a. m. Slot, höll.

**u** hefur sama atkvæði sem ísl. ú, (t. a. m. Bud les Búð, boð.

**y** hljóðar ýmist sem ý í nafninu á stafnum (t. a. m. byde, bjóða), eða sem u (t. a. m. Synd, synd).

**æ** hljóðar eins og ísl, e, og hefur skjótt atkvæði í sumum samstöfum (t. a. m. Værk, verk) en seint í sumum (t. a. m. Væg, veggur).

**aa** hefa sama atkvæði og ísl. o, skjótt í sumum samstöfum) t. a. m. Aand, andi) seint í sumum (t. a. m. Traad, þráður).

**ö** hljóðar á sumum stöðum sem ísl ö (t. a. m. Örn, örn), en sumstaðar á milli ö og u (t. a. m. Söster, systir).

## 2. Tvíhljóðendur, þeir er optast koma fyrir í dönskum orðum eru:

au, ou, ei, öi.

**au** hljóðar eins og á með nokkru ú-hljóði (t. a. m. flau, daufur).

**ou** hljóðar eins og ó með nokkru ú-hljóði (t. a. m. Toug, strengur).

**ei** lætur eins og ei (í íslenzka orðinu eiga).

**öi** lætur eins og au (í orðinu auga).

## 3. Samhljóðendur eru:

b, c, d, f, g, h, j, k, l, m, n, p, q, r, s, t, v, x, z.

**b** í upphafi orða hefur sama atkvæði og b í ísl. (t. a. m. Baad les boð, bátur), en fyrir aptan hljóðstaf í sama orði hefur það jafnaðarlega líkt atkvæði og v (t. a. m. Skib les skív, skip).

**c** hljóðar eins og k í ísl. fyrir framan a, o, u, en eins og s fyrir framan e, æ, i, y (t. a. m. Cujon les kújón, bleyða, Centrum les sentrum, mið-

punktur). **C** á undan samhljóðanda hljóðar eins og k. (t. a. m. Cnejus les Knejus, manns nafn). **Ch** er lesið eins og k (t. a. m. China, les Kína, Kínverjaland).

**d** samsvarar í upphafi orða d í ísl. (t. a. m. Dag, dagur); en fyrir aptan hljóðstaf er það lint og lætur eins og ð í ísl. t. a. m. Fod, fótur); eða heyrist jafnvel ekki í framburðinum (t. a. m. Kande les kanne, kanna).

**f** er borið fram eins og f í upphafi á ísl. orði, þegar það stendur fyrir framan hljóðstaf þeirrar samstöfu, sem það er í (t. a. m. Fader, faðir), en eins og ff, ef það stendur fyrir aptan (t. a. m. traf, les traff, hitti).

**g** samsvarar í upphafi orða g í ísl (t. a. m. Gaade, gáta). Aptarlega í orði er það linara en í íslenzku, og heyrist sumstaðar varla (t. a. m. Pige les pie, stúlka).

**h** er borið fram eins og h í upphafi á ísl. orðum, nema fyrir framan **j** og **v**, því þar heyrist það alls ekki í framburðinum (t. a. m. Hjerte les jerte, hjarta; hvor les vor, hvar).

**j** hefur sama atkvæði og j á ísl.

**k** hefur sama atkvæði og k á ísl.

**l** samsvarar í upphafi orða l í ísl.; **ll** lætur eins og ll í milla (á upphlut, en ekki eins og ll í öðrum orðum t. a. m. höll, fell).

**m** samsvarar í upphafi orða m í ísl., en í niðurlagi orðs mm (t. a. m. Dom les domm, dómur).

**n** hefur sama atkvæði og n á ísl.; **nn** lætur eins og nn í kunna (en ekki eins og nn í steinn).

**p** hefur sama atkvæði og p á ísl., og er jafnhart og ella, fyrir framan s (en verður ekki lint, eins og í íslenzku, þar sem títt er að kveða að ps eins og fs).

**q** hljóðar eins og k, og er að eins haft á undan v (t. a. m. Qvinde les kvinne, kona).

**r** hefur linara eða óskýrra atkvæði en ísl. r.

**s** hefur sama atkvæði sem s á ísl.

**t** hefur sama atkvæði sem t á ísl.

**v** hefur sama atkvæði og ísl. v.

**x** hljóðar eins og ísl. x.

**z** hún er vön að hljóða í framburði Dana eins og s.

---

# Tankesprog og Leveregler.
## Spakmæli og heilræði.

1. Den som ikke vil arbeide, bör ei heller spise.

Sá sem ekki vill vinna, á ekki heldur að fá mat.

2. Hvad du ikke kan betale med Penge, betal det i det mindste med Tak.

það sem þú eigi getur borgað með peningum, borgaðu það að minnsta kosti með þökkum.

3. Hvad jeg ikke forstaaer, det kan jeg hverken dadle eller rose.

það sem jeg ekki skil, það get jeg hvorki lastað eða lofað.

4. Den som engang har löjet, ham troer man ikke lettelig en anden Gang.

Sá sem einu sinni hefur logið, honum trúir maður ekki hæglega öðru sinni.

5. Hvad man engang har lovet, det bör man holde, ellers kaldes man en Bedrager.

það sem maður á annað borð hefur lofað, það á hann að efna, annars heitir maður svikari.

6. Den, som ikke vil blive fattig, maa ikke bortkaste Smaating.

Sá sem ekki vill verða fátækur, má ekki kasta burt smámunum.

7. Det er for sildigt at angre i Alderdommen, intet at have lært i Ungdommen.

það er of seint að iðrast í ellinni, að hafa ekkert lært í æskunni.

8. At gaae tidligt tilsengs og staae tidligt op, gjör Mennesket sundt, rigt og klogt.

Að ganga snemma til rekkju og rísa árla upp, gjörir manninn heilsugóðan, ríkan og hygginn.

9. Den som engang bedrager dig, gjör dig Uret; bedrager han dig anden Gang, gjör han Ret.

Sá sem svíkur þig einu sinni, gjörir þjer rangt; svíki hann þig öðru sinni, gjörir hann mátulega.

10. Hvo som kaster Skarn paa Andre, smudser sig selv mest.

Hver sem kastar saur í aðra, atar sjálfan sig mest.

11. Vi skulle spise for at leve; men ikke leve for at spise.

Vjer eigum að borða til að lifa; en ekki lifa til að borða.

12. Gudsfrygt er nyttig til alle Ting, til Tröst i Ulykken, Forsigtighed i Lykken og Rolighed i Döden.

Guðhræðsla er nytsamleg til allra hluta, til huggunar í mótlæti, varkárni í meðlæti og rósemi í dauðanum.

13. Det bedste Middel til ikke at begaae nogen Feil, er at undgaae Leiligheden dertil.

Hið bezta meðal til að fremja ekki neina yfirsjón, er að forðast tækifærið til þess.

14. Sæt dig stedse i dens Sted, som du agter at gjöre Uret, og du vil da aldrig fornærme nogen.

Settu þig ætíð í þess spor, sem þú ætlar að gjöra rangt, og þá munt þú aldrei áreita neinn.

15. En retskaffen Mand maa holde sitt Ord, og derfor aldrig love noget, han ikke har isinde at holde.

Ráðvandur maður má til að efna loforð sitt, og þess vegna aldrei lofa neinu, sem hann hefur ekki í huga að efna.

16. Den Glæde at hævne sig er ikke saa stor som den at tilgive.

Sú gleði að hefna sín er ekki eins mikil og sú að fyrirgefa.

17. Vil du hævne dig paa din Fjende, saa gjör det ved en ulastelig Opförsel.

Viljir þú hefna þín á óvini þínum, þá gjörðu það með óaðfinnanlegri breytni.

18. Vi skulle leve saaledes, som om hele Verden saae os, og tænke, som om ethvert Menneske kunde læse i vore Hjerter.

Vjer eigum að breyta þannig, eins og öll veröldin sæi til vor, og hugsa, eins og sjerhver maður gæti lesið inn í hjörtu vor.

19. Bevidsthed om vor Styrke kan let lede til Hovmod, og fra Hovmed til Fald er kun et Skridt.

Meðvitund um styrkleika vorn getur hæglega leitt til dramblætis, og frá drambsemi til hrösunar er einungis eitt fótmál.

20. Den, som intet samler om Sommeren, har intet at spise om Vinteren; og den som i Ungdommen intet lærer, maa lide Mangel i Alderdommen.

Sá sem engu safnar á sumrinu, hefur ekkert að borða á vetrinum; og sá sem lærir ekkert í æskunni, verður að þola skort í ellinni.

21. Ikke alt er sundt, som smager godt; og ikke alle Frugter ere velsmagende, som have et skjönt Udseende.

Ekki er allt heilnæmt, sem smakkast vel; og ekki eru öll aldini ljúffeng, sem hafa fallegt útlit.

22. Misund Ingen, fordi han svömmer i Rigdom og Overflod. Han er sandsynlig mindre lykkelig end du.

Öfundaðu engan þó hann syndi í auð og allsnægtum. Hann er að líkindum gæfuminni enn þú.

23. Søg ikke Faren, for at du ikke skal omkomme deri; men gaae den modig imøde, hvor du ikke kan undgaae den.

Leitaðu ekki hættunnar, svo að þú eigi farizt í henni; en gakk hugaður á móti henni, þar sem þú getur ekki sneitt hjá henni.

24. Livets Lykke er ikke bunden til Rigdomme; man lever fornøjet med lidet, naar man er maadeholden og forstaaer at indskrænke sine Lyster.

Gæfa lífsins er ekki bundin við auðæfi; maður lifir ánægður með lítið, þegar hann er hófsamur og hefur vit á að temja girndir sínar.

25. Kun den Tilfredse er rig; men den Gjerrige ulykkelig, fordi han aldrig kan være tilfreds.

Einungis hinn ánægði er ríkur; en hinn ágjarni vesæll, af því hann getur aldrei verið ánægður.

26. Gnieren har aldrig nok; han er karrig imod andre og sulter sig selv, naar han ikke kan nyde Livets Goder for intet.

Nirfillinn hefur aldrei nóg; hann er nískur við aðra og sveltir sjálfan sig, þegar hann ekki getur notið gæða lífsins fyrir ekkert.

27. Han tænker aldrig paa Fremtiden uden Ængstelse, og for ikke at lide Mangel paa sine gamle Dage, lider han Mangel sin hele Levetid.

Hann hugsar aldrei um ókominn tíma án kvíða. og til þess að líða ekki skort í ellidögum sínum, líður hann skort alla sína æfi.

28. Menneske, vogt dig da for Gjerrighed. Stræb kun at foröge din Formue paa en tilladelig Maade; vær den flittige Arbeider og den gode Huusholder.

Maður, gættu þín þá fyrir ágirnd. Kappkostaðu einungis að auka efni þín með leyfilegu móti; vertu

eins og hinn iðjusami verkmaður og hinn góði búhöldur.

29. Korte ere vor Samvandrings Dage her paa Jorden. See til at du ikke selv forbittrer dig dem ved Vrede og Overilelse.

Skammvinnir eru vorir samferðar dagar hjer á jörðunni. Sjáðu um, að þú ekki beiskir þjer þá sjálfur með reiði og framhleypni.

30. Søg at overvinde din Fjende ved Höimodighed, ved at blive hans Hjælper og Velgjörer, hvor han behöver Hjælp.

Reyndu til að sigra óvin þinn með göfuglyndi, með því að verða hjálpari hans og velgjörðamaður, þar sem hann þarf hjálpar við.

31. Den der mangler en Ven, vandrer som en Fremmed over Jorden.

Sá sem vantar vin, ferðast eins og útlendingur yfir jörðina.

32. Trofast Venskab ligner Aftenskyggen, det voxer indtil Livets Sol gaaer ned.

Tryggföst vinátta líkist skugganum á kvöldin, hún vex uns sól lífsins gengur til viðar.

33. Kun de fattige, som eje lidet eller intet, er det forundt at nyde Venskabs Lykke i fuldt Maal.

Einungis hinum fátæku, sem eiga lítið eða ekkert, er unnt að njóta gæfu vináttunnar í fullum mæli.

34. Brustent Venskab er en brusten Livstraad. Har du fundet en Ven, saa hold ham fast med inderlig Omhu, thi du træffer ikke saa let en anden, der bliver det samme for dig, som hiin var.

Brostin vinátta er brostinn lífsþráður. Hafir þú fundið vin, þá haltu fast í hann með innilegri um-

hyggju, því þú hittir ekki svo hæglega annan, sem gengur þjer í hins stað.

35. Pryd hver en Dag, der gaaer, med en dydig Handling, da ville dine Glæder aldrig faae Ende.

Prýddu sjerhvern dag, sem líður, með dygðugri athöfn, þá munu unaðsemdir þínar aldrei taka enda.

36. Nyd, saa ofte du kan, den rene guddommelige Fryd, at gjöre andre glade og lykkelige.

Njóttu svo opt sem þú getur þess hreina guðdómlega fagnaðar, að gjöra aðra glaða og sæla.

37. Lad ikke dit Mod synke, naar du seer, at dine Omstændigheder forværres, og din Velstand formindskes, uden at du er Skyld deri.

Láttu ekki hugann falla, þegar þú sjerð, að kringumstæður þínar versna, og velmegun þín minkar, án þess að þú sjert orsök í því.

38. Fordobl din Arbeidsomhed, thi Himlen velsigner den Flittige. Fordobl din Paapassenhed, saavel for at holde sammen paa det lidet, du ejer, som for at lægge noget til af det du forhverver.

Tvöfaldaðu starfsemi þína, því himininn blessar hinn iðjusama. Tvöfaldaðu umhyggjusemi þína, bæði til að hirða um hið litla, sem þú átt, og til að bæta nokkru við af því, sem þú aflar.

39. Tag imod Trang med en urokkelig Tillid til Guds Viisdom og Godhed, ja, tag imod den med Taknemmelighed. Kan din Tro hæve dig til Gud, saa vil din Rolighed og Frimodighed aldrig aflade.

Taktu á móti skorti með óbifanlegu trausti á speki og gæzku guðs, já, taktu á móti honum með þakklæti. Geti trú þín hafið þig til guðs, þá mun rósemi þín og glaðværð aldrei linna.

40. Hig ikke efter Rigdom! Den udsætter dig for

Misundelse, förer til Vellevnet og Lediggang, slöver Aanden og köler Hjertet.

Sækstu ekki eptir auðlegð! Hún bakar þjer öfund, leiðir til bílífis og iðjuleysis, sljófgar andann og kælir hjartað.

41. Betragt dine Skatte som et Laan, der kom fra Alherrens Haand, som et Middel til at fremme din egen og Andres Fuldkommenhed og Lyksalighad.

Skoðaðu fjársjóði þína eins og lánsfje, sem komið er frá hendi drottins allsherjar, eins og meðal til að að efla þína eigin og annara fullkomnun og farsæld.

42. Da döer du engang med den Bevidsthed, som forsöder Dödens Beeskhed: Jeg har ei levet forgjeves; mine Gjerninger ville tale for mig.

Þá deyr þú á síðan með þeirri meðvitund, sem sykrar beiskju dauðans: Jeg hef eigi lifað til ónýtis; verk mín munu tala máli mínu.

43. Den dydige Hedning, den retskafne Jöde er agtværdigere og Gud behageligere, end en Christen, som overgiver sig til Laster.

Hinn dygðugi heiðingi, hinn ráðvandi Gyðingur er virðingarverðari og guði þóknanlegri, enn kristinn maður, sem ofurselur sig löstum.

44. Vær först retfærdig imod andre, og saa dig selv nærmest; det vil sige, gjör först imod andre hvad de have Ret til at fordre og vente af dig, og gjör dernæst hvad der tjener til dit eget Gavn.

Vertu rjettlátur við aðra, og svo sjálfum þjer næstur; það er að segja, gjörðu fyrst við aðra það, sem þeir hafa rjett til að heimta og vænta af þjer, og gjörðu því næst það, sem miðar þjer sjálfum til gagns.

45. En god og glædelig Bevidsthed er en Himmel

i dit Hjerte. Den hjemler dig et Herredömme over de Onde, og tjener dig som Sværanker i Stormen.

Góð og glaðvær meðvitund er himnaríki í hjarta þínu. Hún heimilar þjer vald yfir hinum vondu, og reynist þjer eins og stórakkeri í stórviðrinu.

46. Den fortærer din Kummer, som Solen töer Isen. Den er en Brönd, naar du törster, en Staf, naar du segner, en Skjærm imod Solens Stik, en Hovedpude, hvorpaa du finder Ro og Lise i din Dödstund.

Hún eyðir harmi þínum, eins og sólin þýðir ísinn. Hún er brunnur, þegar þig þyrstir, stafur, þegar þú hnígur niður, hlíf á móti brunahita sólarinnar, koddi, á hverjum þú finnur rósemi og hugsvölun á þinni andlátsstundu.

47. Samvittigheden er vor Lærer! Den siger endogsaa den Uvidende hvad han bör gjöre, og Ingen tör undskylde sig med, at han ei har vidst hvad der var Ret eller Uret.

Samvizkan er vor kennari! Hún segir jafnvel hinum fáfróða hvað hann á að gjöra, og enginn maður dirfist að afsaka sig með því, að hann hafi eigi vitað hvað var rjett eða rangt.

48. Giv med Glæde, naar du giver. Grunder du længe paa, hvormeget du skal give, da kommer Gaven ikke fra Hjertet men fra Forstanden.

Gefðu með gleði, þegar þú gefur. Veltir þú lengi fyrir þjer, hversu mikið þú skulir gefa, þá kemur gjöfin ekki frá hjartanu, heldur frá hyggjuvitinu.

49. Vil du, at dit Barn skal föle Ærbödighed for Gud og Religionen, lad det da see Religion og Gudfrygtighed i dine egne Ord og Gjerninger.

Ef þú vilt að barn þitt skuli finna til lotningar fyrir guði og trúarbrögðunum, þá láttu það sjá trú og guðsótta í orðum og verkum sjálfs þíns.

50. Vælg dig kun saadanne Venner, som ved deres Tænkemaade forbedre din; thi en Ven, der ikke i mange Stykker er bedre end du, standser dig i Löbet til Fuldkommenhed.

Veldu þjer einungis þá fyrir vini, sem með hugarfari sínu bæta hugarfar þitt; því sá vinur, sem ekki er í mörgum greinum betri enn þú, tefur þig á skeiðinu til fullkomnunar.

51. Et fölende Hjerte er den bedste Rigdom. Hvem der mangler det, han seer forgjeves alle Naturens Yndigheder blomstre, og vansmægter af Törst ved den klareste Kilde.

Viðkvæmt hjarta er bezta auðlegð. Hvern sem vantar það, hann sjer til einkis allar unaðsemdir náttúrunnar í blóma þeirra, og vanmegnast af þorsta við tærustu uppsprettu.

52. Velgjörenhed er kun sand Dyd, naar Driften dertil udspringer af inderlig Deeltagelse i de Ulykkeliges Skjebne.

Góðgjörðasemi er þá að eins sönn dygð, þegar hvötin til hennar sprettur af innilegri hluttekningu í kjörum hinna bágstöddu.

53. Ær dine Forældre og lyd dem i din Ungdom. De gav dig Livet, de gav dig Bröd og dertil Fryd og Glæde, da du endnu ikke kunde give dem andet end Angest og Bekymring.

Heiðraðu foreldra þína og hlýddu þeim í æsku þinni. Þeir gáfu þjer lífið, þeir gáfu þjer brauð, og þar að auki fögnuð og gleði, meðan þú gazt ekki látið þeim annað í tje enn angist og áhyggju.

54. Den der af Hjertet ærer sin Fader, den der af Hjertet elsker sin Moder, den er i Stand til alt, hvad der er Godt og Stort. Denne Ærefrygt er den

barnlige Uskyldigheds mægtige Skytsengel, og den jernstærke Stav, hvorved selv den Faldne atter reiser sig.

Sá sem af hjarta heiðrar föður sinn, sá sem af hjarta elskar móður sína, hann er fær um alt, sem er gott og mikið. þessi virðing er voldugur verndarengill hins barnlega sakleysis, og sá hinn járnsterki stafur, er jafnvel hinn hrasaði stendur aptur á fætur með.

55. Du kæmper, o Menneske, og higer efter det Bedre og strider imod Begivenhedernes Ström; men Livets Bölger törne haardt imod dig, og bryde ofte kun for tidlig din Kraft.

þú stritar, maður, og sækist eptir hinu betra og berst á móti straumi atburðanna; og öldur lífsins skella hart á þjer, og lama því miður opt of fljótt afl þitt.

56. Du har din Villje, din Klogskab, dine Kræfter, men den Höjeste har Omstændighederne i sin Magt; ved disse regjerer han Menneskene, velsigner eller tilintetgjör deres Gjerning.

þú hefur vilja þinn, hyggindi þín, krapta þína, en hinn æðsti hefur kringumstæðurnar í sínu valdi; með þeim stjórnar hann mönnunum, blessar eða ónýtir verk þeirra.

57. Et godt Navn efter Döden er det kosteligste Arvegods, som du kan efterlade dine Börn og Efterkommere. Et ulykkeligt Tilfælde kan röve dem det timelige Gode, som du sammensparede til dem.

Góður orðstýr eptir dauðann er hin dýrmætasta arfleifð, sem þú getur eptirskilið börnum þínum og niðjum. Eitt óheppilegt tilfelli getur svipt þá hinum jarðnesku fjármunum, sem þú nurlaðir saman handa þeim.

58. Jo ældre vi blive, jo kortere finde vi Aarene. Ligesom Steenen, der ruller ned ad Bakke, farer afsted med foröget Hastighed, jo dybere den kommer

ned; saaledes rinder Livet hurtigere, jo længere det fjerner sig fra Barndommen og iler afsted imod Alderdommen og Graven.

Því eldri vjer verðum, þess styttri finnast árin oss. Eins og steinninn, sem veltur niður eptir brekku, flegist áfram með því meiri hraða, því neðar sem hann kemur, eins líður lífið því fljótar, því meir sem það fjærlægist æskuna og skundar til móts við ellina og gröfina.

59. Vær overbeviist om, at hvad der virkelig gavner dig eller Menneskeheden, det modnes, om end seent, saa dog sikkert, saafremt du ikke lægger Hænderne i Skjödet, men uafladelig og freidig virker derfor efter bedste Evne!

Vertu viss um, að það sem í raun og veru gagnar sjálfum þjer eða mannkyninu, það þroskast, enda þótt seint, þá samt áreiðanlega, svo framarlega sem þú ekki leggur höndurnar í kjöltuna, heldur starfar óaflátanlega og örugglega að því af fremsta megni.

60. Menneske, vil du opfylde din Bestemmelse, saa lad Tidens Fugleflugt stedse minde dig om, i Tide at handle viselig, at du ei skal nages af Anger, naar det er for silde.

Maður, ef þú vilt fullnægja ákvörðun þinni, þá láttu vængjaflug tímans ávallt minna þig á að breyta skynsamlega í tíma, svo þú ekki skulir kveljast af angri, þegar það er um seinan.

61. O Menneske, du eftertænkte ofte, hvor lidet Udfaldet svarede til Menneskets Idrætter, og hvorlunde den Dödelige ofte tvinges til at vandre en ganske anden Vei, end den han önskede at betræde.

Ó, maður, þú íhugaðir opt, hversu lítið afdrifin samsvöruðu athöfnum mannsins, og hvernig sá hinn dauðlegi neyddist opt til að ganga allt annan veg, enn þann sem hann vildi ganga.

62. Vid: det er ingen blind Skjebne, som uden Bevidsthed og uden Plan leger med Menneskets Vel og Vee.

Þú skalt vita: það eru ekki blind forlög, sem meðvitundarlaust og ráðlaust leika sjer að gæfu og ógæfu mannsins.

63. Men det er en höjeste Viisdom, som forunderlig styrer det Hele, som det Enkelte, det mindste Kryb, som det största Folks Skjebne, paa det at Alt kan ret opholdes.

Heldur er það hin æðsta speki, sem dásamlega stjórnar hinu gjörvalla, eins og hinu einstaka, hinu minnsta skriðkvikindi, eins og kjörum stærstu þjóðar, svo að allt geti tilhlýðilega haldizt við lýði.

64. Dyrene paa Marken gav Gud en Klædning af lodne Skind, Fuglene indhyllede han i en Fjederham, at de havde et Værn imod alle Slags Veirlig, men Mennesket lod han nögent og bart.

Dýrunum á akrinum gaf guð klæðnað loðinna skinna, fuglana hjúpaði hann í fiðurham, svo þeir hefðu skýli móti hvers kyns veðuráttu; en manninn ljet hann vera beran og nakinn.

65. Dyrene skjenkede han naturlige Vaaben, hvormed de kunde værge sig mod deres Fjende, nogle en særdeles Styrke, andre en overordentlig Hurtighed; men Mennesket havde af Naturen Intet, hvormed det kunde trodse Tyrens Horn, Lövens Klöer, Tigerens Styrke og Slangernes Tænder.

Dýrunum gaf hann meðfædd vopn, sem þau gátu varið sig með móti óvini sínum, sumum afbragðs styrkleika, öðrum framúrskarandi flýti; en maðurinn hafði ekkert af náttúrunni, sem hann gat beitt á móti hornum nautsins, klóm ljónsins, afli tigrisdýrsins og tönnum höggormanna.

66. Men Gud gav Mennesket Forstand og Fornuft. Han skulde selv opfinde sine Vaaben, selv skaffe sig Alt. Guds Viisdom tvang ham til at bruge sine Aandskræfter, for omsider at blive Herre over alle Dyr, at aftvinge den ufrugtbare Jord Föde, at bygge sig selv fælles Boliger, Landsbyer og befæstede Stæder, og at udtænke velgjörende Love for at betrygge et fredeligt Samliv.

En guð gaf manninum vit og skynsemi. Hann átti sjálfur að finna sjer upp verjur, sjálfur útvega sjer alla hluti. Speki guðs neyddi hann til að brúka öfl sálarinnar, til þess á endanum að verða herra yfir öllum dýrum, að neyða hina ófrjófsömu jörð til að láta í tje fæði, að byggja sjer sjálfur sameiginlega bústaði, þorp og umgirtar borgir, og til þess að hugsa upp heilsusamleg lög til að tryggja friðsamlegt fjelagslíf.

67. Lyksalige ere de Henslumrede! Dem vil ingen Qvide mere ramme. Og naar din Kamp endnu ikke bliver endt i Dag; — Tidens Ström den ruller ustandselig, Forlösningens Time nærmer sig, du slumrer ind, den sidste Smerte dulmer og döer.

Sælir eru þeir burtsofnuðu! þá mun engin nauð framar henda. Og þó barátta þín taki eigi enda á þessum degi; — þá rennur samt straumur tímans óaflátanlega, lausnartíminn nálgast, þú sofnar út af, hin síðasti sársauki linast og hverfur.

## Lystige Fortællinger.

1.

En Tosse, som kjendte to Brödre, fik at vide, at en af dem var död. Da han nogen Tid derpaa mödte den Efterlevende, sagde han til ham: hör! jeg veed nok, at en af eder döde, men jeg husker ikke rigtig, om det var dig eller din Broder.

2.

En Herre kaldte paa sin Tjener og befalede ham at tage den Bunke Breve, som laae paa Bordet, og brænde dem; men Tjeneren bad, om han ikke maatte skaane nogle af dem og beholde dem til sig selv. Da Herren meget forundret spurgte, hvad han vilde have dem til, sagde han: da jeg tog hjemme fra, saa bad mine Söstre mig, at jeg skulde skikke dem et Brev engang imellem. Nu tænkte jeg som saa: Herren bruger dem ikke mere, og de ere dog ganske nye og pæne endnu; jeg kunde da efterhaanden skikke dem til mine Söstre, siden de saa gjerne vil have et Brev fra mig.

3.

En Handelsbetjent, som i mange Aar havde skrevet sin Principals Breve, var just en Postdag staaet op fra Skriverbordet, da hans Medtjener kom löbendes og fortalte, at Kjöbmanden, deres Herre, var pludselig död af et Slag. Da han nu indsaae, at dette strax maatte meldes til Handelsvennerne, men han tillige var vant at skrive Brevene i sin Herres Navn, saa tilföiede han i Enden af alle Brevene disse Ord: Sluttelig undlader jeg ikke at melde Dem, at det for en halv Time siden har behaget den alvise Gud,

## Hlæilegar frásögur.

1.

Auli nokkur, sem þekkti tvo bræður, fjekk að vita, að annar þeirra væri dauður. Þegar hann nokkrum tíma síðar mætti þeim, sem var á lífi, sagði hann við hann: heyrðu! jeg veit að sönnu, að annar ykkar deyði, en jeg man ekki rjett, hvort það var þú, eða bróðir þinn.

2.

Húsbóndi nokkur kallaði á þjón sinn, og skipaði honum að taka brjefa hrúguna, sem lá á borðinu, og brenna þau; en þjóninn mæltist til, hvort hann ekki mætti hlífa nokkrum af þeim, og geyma þau handa sjálfum sjer. Þegar húsbóndinn, sem það furðaði mjög, spurði hvað hann ætlaði að gjöra við þau, sagði hann: þegar jeg fór að heiman, þá báðu systur mínar mig, að jeg skyldi senda þeim brjef við og við. Nú hugsaði jeg á þá leið: húsbóndinn gjörir ekki neitt við þau framar, og þau eru þó enn öldungis ný og þokkaleg; jeg gæti þá smátt og smátt sent þau til systra minna, fyrst þær vilja svo feignar fá brjef frá mjer.

3.

Verzlunarþjón nokkur, sem í mörg ár hafði skrifað brjef húsbónda síns, var einmitt einn dag sem póstur átti að fara, staðinn upp frá skrifborðinu, þegar samþjón hans kom hlaupandi og sagði, að kaupmaðurinn, húsbóndi þeirra, hefði snögglega dáið úr slagi. Þar eð hann nú sá, að þetta hlaut þegar að tilkynnast skiptavinum hans, en var annars vanur að rita brjefin í nafni húsbónda síns, þá bætti hann þessum orðum við í endann á öllum brjefunum: að endingu læt jeg eigi hjá líða, að tjá yður, að fyrir hálfri stundu þóknaðist alvís-

at bortkalde mig fra denne Verden ved et pludseligt Slagtilfælde.

4.

I en lille fransk Bye faldt en kone, som længe havde været sengeliggende, i Sovesyge. Manden og de, der vare omkring hende, ansaae hende for död. Efter Skik og Brug blandt Stedets fattige Folk indviklede man hende blot i et Lagen, og bar hende til Jorden. Men paa Vejen til Graven kom de, der bare hende, tæt forbi en Tornebusk; Tornene stak hende, og hun vaagnede af Sovesygen. Fjorten Aar derefter döde hun virkilig, idetmindste troede man det. Man bar hende nu atter til Jorden, og da man nærmede sig samme Tornebusk, begyndte Manden at raabe: gaae forsigtig, kom ekke Hækken for nær!

5.

En Læge, der var meget udmærket i sin Kunst, men tillige en stor Ven af Penge, besögte en Dag en Philosoph, som nylig var kommen op af en farlig Sygdom. Han fandt Viismanden ifærd med en Ragout. Hvad gjör De der? udbröd Lægen, slige Retter ere en Gift, endog for dem, der nyde den bedste Helbred. De har Ret i hvad De siger, sagde Philosophen: jeg skal före mig Deres Ord til Nytte. Men apropos, hvor meget er jeg Dem skyldig for de Besög, De under min Sygdom har aflagt hos mig? Lægen forlangte en meget betydelig Sum. Philosophen optællede Pengene, og overrakte ham dem med disse Ord: De skaaner ikke de stakkels Syge, der söge sin Tilflugt til Dem; tag Dem i Agt for Deres Sygdom, den er ligesaa alvorlig som min:

um guði að kalla mig burt úr heimi þessum með snögglegri niðurfallssýki.

4.

Í dálitlum frakkneskum bæ fjell kona nokkur, sem lengi hafði legið rúmföst, í svefnsýki. Maður hennar og þeir, sem hjá henni voru, hjeldu hún væri dauð. Eins og siður var og tíðkanlegt hjá fátæklingum á þeim stað, völðu menn hana einungis innan í línlak og báru til greptrunar. En á leiðinni til grafarinnar gengu þeir, sem báru hana, rjett fram hjá þyrnirunna; þyrnarnir stungust í hana, og hún vaknaði af svefnsýkinni. Fjórtán árum síðar dó hún í raun og veru; að minnsta kosti hugsuðu menn það. Menn báru hana þá aptur til grafar, og þegar þeir nálguðust sama þyrnirunnann, hóf maður hennar að kalla: farið varlega, gangið ekki of nærri limgarðinum.

5.

Læknir nokkur, sem var mjög ágætur í íþrótt sinni, en jafnframt mjög fjegjarn maður, vitjaði einn dag um heimspeking, sem nýlega var staðinn upp úr hættulegum sjúkdómi. Hann sókti svo að spekingnum, að hann sat að kjötkrás. Hvað eruð þjer nú að gjöra? kallaði lækninn, slíkir rjettir eru eitur, jafnvel fyrir þá, sem hafa beztu heilsu. Þjer hafið satt að mæla, sagði heimspekingurinn: jeg skal færa mjer orð yðar í nyt. En vel á minnst, hvað er jeg yður mikið skuldugur fyrir vitjunarferðir þær, sem þjer hafið gjört yður til mín, meðan jeg var sjúkur? Lækninn vildi hafa mjög mikið fje. Heimspekingurinn taldi fram peningana, og fjekk honum þá með þessum orðum: þjer vægið ekki veslings sjúklingunum, sem leita líknar hjá yður; hafið gát á yður fyrir sjúkdómi yðar,

Rigdomme ere for Sjælen hvad Ragouts ere for Legemet.

6.

En Blind vandrede i belmörk Nat paa Gaden med en Lygte i Haanden og en fyldt Viinkrukke paa Ryggen. En Bekjendter af ham, som kom löbende i fuld Fart, mödte ham, og kunde ikke undlade at tilkjendegive sin Forundring over at træffe ham med en Lygte. Hvor til nytter dette Lys Dig, sagde han; Natten og Dagen ere jo lige for Dig? Det er ikke for min egen Skyld jeg bærer denne Lygte, svarede den Blinde: det skeer for at ikke Fusentaster som du og dine Lige skal stöde paa mig, og slaae min Krukke istykker.

## Moralske Anecdoter.

1.

Man bebreidede engang den berömte Aristoteles, at han havde givet Almisse til et Menneske, der paa Grund af Vellyst og Blödagtighed var bleven fattig, hvorpaa Philosophen svarede: „Jeg har ikke understöttet dette Menneske, men kun den lidende Menneskehed“.

2.

Maleren Pythias blev spurgt, hvilken Farve han mest yndede. „Den“, sagde han, „hvormed Skam og Undseelse farver en dydig Piges Ansigt“.

3.

En Philosoph havde kjöbt et Par Skoe paa Kredit. Da han vilde gaa hen, for at betale dem, fandt han Skogmagerens Bod lukket, og hörte, at han var död. Herover fölte han en hemmelig Glæde og gik, veltilfreds med at have baade Skoe og Penge; men

það kveður allt eins mikið að honum og mínum: auður er það fyrir sálina, sem kjötkrásir eru fyrir líkamann.

6.

Maður nokkur blindur gekk um stræti koldimma nótt með ljósbera í hendinni og fulla vínkrukku á bakinu. Kunningi hans einn, sem kom hlaupandi með mesta hraða, mætti honum, og gat ekki stilt sig um að láta í ljósi undrun sína yfir að hitta hann með ljósbera. Hvaða gagn hefur þú af þessu ljósi, sagði hann, nótt og dagur eru þó eins fyrir þjer? það er ekki sjálfs míns vegna sem jeg geng með þennan ljósbera, svaraði hinn blindi: það er til þess að glannar, eins og þú og þínir líkar, skuli ekki reka sig á mig og brjóta krukkuna mína í sundur.

## Siðferðislegar smásögur.

1.

Menn álösuðu einu sinni hinum nafnfræga Aristoteles fyrir, að hann hefði gefið ölmusu manni, sem var orðinn öreigi vegna munaðarlífis; en þá svaraði heimspekingurinn: jeg liðsinti ekki manninum, heldur einungis manndóminum, sem nauðina leið.

2.

Málarinn Pythias var spurður, hver litur honum geðjaðist bezt. „Sá, sagði hann, sem sneipa og feimni litar með ásjónu heiðvirðrar meyjar.

2.

Heimspekingur nokkur hafði keypt eina skó með borgunarfresti. þegar hann ætlaði að fara að borga þá, hitti hann á búð skóarans lokaða, og hann heyrði, að hann væri dauður. Honum þókti vænt um það niðrí, og gekk burt glaður af því að hafa bæði skóna og

Samvittigheden vaagnede snart efter Forseelsen. Han eftertænkte sin Uretfærdighed, gik hurtig tilbage til Boden og sköd Pengene ind i gjennem en Dör, idet han sagde for sig selv: „Omendskjöndt denne Mand er död for Andre, saa lever han dog for Dig“.

4.

Da Philosophen Bias maatte dömme en Forbryder til Döden, udgöd hann Taarer over det ulykkelige Menneskes sörgelige Skæbne. „Hvorfor græder Du“? spurgte man ham, „det er jo afhængigt af Dig at fordömme eller frikjende ham“. Nei — svarede Bias — Retfærdigheden og Lovene fordre, at jeg skal fordömme ham; men Naturen paa den anden Side, at jeg röres over den svage Menneskeheds Ulykke.

5.

Man bebreidede Philosophen Kleanth den Forsigtighed, som han udviste ved enhver Leilighed. „Det er en lykkelig Feil“, sagde han, „ved den har jeg undgaaet mange Forseelser og sparet mig unyttig Anger.

6.

En af vore Konger havde en Yndling, der bad ham om et Embed for et Menneske, som var uduelig dertil. Kongen udforskede, hvor stor Foræring der var tiltænkt Hofmanden for at forskaffe dette Embede. Han lod ham derefter komme til sig, og sagde, idet han viste ham en Sum Penge, der var ligesaa stor, sem den, der var ham tilbuden. „Tag disse Penge, de kunne ikke gjöre mig fattig; men

peningana; en samvizkan vaknaði bráðlega eptir yfirsjónina. Hann fór að hugsa um ranglæti sitt, skundaði aptur til búðarinnar og kastaði peningunum inn um dyr einar, og sagði um leið við sjálfan sig: jafnvel þó þessi maður sje dauður fyrir aðra, þá lifir hann þó fyrir þig.

4.

Þegar heimspekingurinn Bías átti að dæma óbótamann einn til dauða, úthellti hann tárum yfir harmakjörum aumingja mannsins. „Af hverju ertu að gráta"? spurðu menn hann. „það er þó á þínu valdi að sakfella hann, eða dæma hann síknan. — „Nei" — svaraði Bías — „rjettvísin og lögin heimta, að jeg dæmi hann sekan; en náttúran heimtar hins vegar, að jeg vikni vegna ógæfu hins breiska manneðlis".

5.

Menn álösuðu heimspekingnum Kleanth fyrir þá varfærni, sem hann sýndi við sjerhvert tækifæri. „það er ókostur með miklu láni" sagði hann, „með honum hef jeg sneitt hjá mörgum yfirsjónum, og komizt hjá óþarflegu angri.

6.

Einn af konungum vorum átti vildarmann, sem bað hann um embætti handa manni, er var óhæfilegur til þess. Konungurinn grófst eptir, hve mikil fjegjöf væri ætluð hirðmanninum fyrir að útvega þetta embætti. Hann kallaði hann síðan fyrir sig, og sagði um leið og hann benti honum á peninga, sem var jafnmikið fje því, er honum hafði verið boðið. „þigg þessa peninga, þeir geta ekki gjört mig fátækan;

forlang ikke nogen Naade af mig, hvis Opfyldelse vilde gjöre mig uretfærdig".

7.

Uagtet Henrik den Fjerde var en overordentlig god Konge, udövede han ikke destomindre streng Retfærdighed. „Jeg har to Öine og to Födder", sagde han, „hvori er jeg da forskjellig fra mine Undersaatter, undtagen derved, at jeg har Retfærdighedens Styrke i min Haand". Da han derfor engang af Rigets Store var bedet om Naade for et Menneske, der havde dræbt sin Söster, gav han een af dem fölgende Svar: „Om jeg endog var den Elendiges Fader, vilde jeg dog ikke bede om Naade for ham", og til en Anden sagde han: „Jeg vil skjenke Dig hans Aske, naar han er tilbörligt straffet".

8.

En Konges Minister var falden i Unaade, og drog sig tilbage til en frugtbar Dal, som han dyrkede med Omhu. Da han ikke havde fortjent sin Afsked, tröstede han sig let og fandt megen Smag i sin ny Levemaade. Kongen, som skattede hans Talenter og fölte sit Tab, sögte ham op, og bad ham igjen at komme til Hoffet. Men Ministeren afslog det og sagde: „Du har hævet mig til den höjeste Værdighed; med Fasthed taalede jeg de Besværligheder, som vare forenede dermed. Du har tvunget mig til at trække mig tilbage; nu har jeg Ro, lad mig beholde den. — At unddrage sig Verden er at beröve det vilde Dyr dets Tænder, den Ondskabsfulde hans Dolk og Slangen dens Braad". Kongen trængte paa ham; „jeg behöver en oplyst og retskaffen Mand", sagde han,

en bið mig ekki um neina náðargjöf, er jeg eigi gæti veitt án þess að gjöra rangt".

7.

Jafnvel þó Hinrik fjórði væri allra bezti konungur, framfylgði hann eigi að síður rjettvísinni með strangleika. „Jeg hef tvö augu og tvo fætur" sagði hann, „í hverju er jeg þá frábrugðinn þegnum mínum, nema í því, að jeg hef afl rjettvísinnar í hendi mjer"? Þegar hann þess vegna var einu sinni beðinn af höfðingjum landsins, að náða mann, sem drepið hafði systir sína, veitti hann einum þeirra svo látandi svar: „Jafnvel þó jeg væri faðir ógæfumannsins, vildi jeg þó ekki biðja um að vægja honum", og við annan sagði hann: „Jeg skal gefa þjer öskuna af honum, þegar búið er tilhlýðilega að refsa honum".

8.

Ráðgjafi konungs nokkurs hafði komizt í óvild, og flutti sig burt í frjófsaman dal, sem hann ræktaði vandlega. Þar hann hafði ekki átt það skilið að honum væri vikið frá, tók hann það ekki nærri sjer, og sætti sig vel við sinn nýja lífernishátt. Konungurinn, sem mat mikils gáfur hans, og saknaði hans, fór og leitaði hans, og bað hann að koma aptur til hirðarinnar. En ráðgjafinn neitaði því og sagði: „Þú hófst mig til æðstu tignar; með þreklyndi bar jeg þá erfiðismuni, sem henni voru samfara; þú hefur neytt mig til að draga mig í hlje; nú hef jeg næði, lofaðu mjer að vera í því. — Að draga sig í hlje frá heiminum, er að firrast tönnur villudýrsins, morðhníf illmennisins og tungu höggormsins". Konungurinn lagði að honum, „jeg þarf skynsaman og ráðvandan mann",

„som kan hjelpe mig at bære Magtens Byrde, og jeg finder ingen dueligere dertil, end Dig“. „Du vil finde Een“, svarede Ministeren ham, „naar Du söger iblandt dem, som ikke söge Dig“.

## Alvorlige Fortællinger.

### 1. Grönlænderen og Missionæren.

En ung, rask Grönlænder reiste engang over Bjergene med den bekjendte Missionær Kranz, som havde været et Redskab i Guds Haand, til at omvende ham fra Hedenskabets Mörke. Det var en deilig Morgenstund; Solen hævede sig majestætisk over Fjeldtoppene, der ligesom svævede mellem Himmel og Jord i straalende Purpurglands. Dybt bevæget i Sindet og overvældet af sine Fölelser, standsede Grönlænderen, greb Missionærens Arm og udbröd: „See, Broder, hvilken Skjönhed og Pragt! O hvor stor og herlig maa han dog være, som har frembragt alt dette“!

### 2. Den Vise, som blev til Daare.

Der var engang en Mand, som var kommen i Ry for at besidde stor Viisdom. Kongen, som vidste dette, fik Lyst til at pröve ham, og opfordrede ham derfor pludselig en Dag til at sig ham, hvad Gud er. Den Vise bad, om han maatte betænke sig en Dags Tid; dette blev ham tilstaaet. Derefter kaldte Kongen ham atter for sig, og forlangte Svar paa sit Spörgsmaal. Den Vise bad nu om to Dages Betænkningstid; da disse vare forlöbne og Kongen vilde have et bestemt Svar, bad han om fire Dage;

sagði hann, „sem getur hjálpað mjer til að bera valdabyrðina, og jeg veit engan færari til þess enn þig“. Þú munnt finna einhvern“, svaraði ráðgjafinn honum, „ef þú leitar meðal þeirra, sem ekki leita þín“.

## Alvarlegar frásögur.

### 1. Grænlendingurinn og kristniboðarinn.

Ungur, röskur Grænlendingur ferðaðist einu sinni yfir fjöllin með hinum nafnkunna kristniboðara Kranz, sem hafði verið verkfæri í guðs hendi til að snúa honum frá myrkri heiðninnar. Það var indæl morgunstund; sólin lypti sjer hátignarleg upp yfir fjallatindana, sem eins og sveimuðu milli himins og jarðar í ljómandi purpurafegurð. Innilega hrærður í huga og gagntekinn af tilfinningum sínum, nam Grænlendingurinn staðar, greip um handlegginn á kristniboðaranum og sagði hátt: „Sko, bróðir, sjer er hver fegurðin og skrautið! Ó hversu mikill og dýrðlegur hlýtur hann þá að vera, sem hefur skapað allt þetta“!

### 2. Vitringurinn, sem varð að heimskingja.

Það var einu sinni maður, sem hafði fengið á sig orðróm fyrir að hann hefði til að bera mikla speki. Konungurinn sem vissi þetta, fjekk löngun til að reyna hann, og skoraði þess vegna snögglega á hann einn dag, að segja sjer hvað guð er. Vitringurinn mæltist til, hvort hann mætti hugsa sig um eina dagstund; honum var lofað það. Síðan kallaði konungur hann aptur fyrir sig og heimtaði svar upp á spurningu sína. Vitringurinn bað nú um tveggja daga umhugsunartíma; þegar þeir voru liðnir, og konungur

men det var lige nær endda, thi saa ofte man trængte ind paa ham, for at faae ham til at svare, begjerede han ny og længere Henstand. Da Kongen nu vilde vide Aarsagen til denne besynderlige Adfærd, svarede Manden ligefrem: „Jo mere jeg tænker over denne Gjenstand, desto dunklere forekommer den mig, desto ubegribeligere bliver Guds Væsen mig“.

### 3. Er Himmelen din?

En Dalekarl, det vil sige, en Mand fra Provindsen Dalerne i Sverrig, arbeidede engang hos en rig Herre i Nærheden af Stokholm. Denne underholdt sig paa en Spadseregang med Arbeideren, og spurgte ham: om han vidste, hvem dette eller hiint Gods hörte til? Dalekarlen svarede: „Nei, hvor skulde jeg vide det“? „Da skal jeg sige dig det“, vedblev Herren: „det tilhörer ingen Anden end mig Ja, alt“, föjede han til, „alt hvad du her kan see rundt omkring dig, er mit“. Dalekarlen stod et Öjeblik stille, satte Spaden i Jorden, tog Huen af, og i det han pegede op mod Himmelen, sagde han med Eftertryk: „Her seer jeg Himmelen; er den ogsaa din“? Den rige og forfængelige Godsejer fölte sig truffen, og det varede en Stund, inden han atter pralede af sin jordiske Herlighed.

### 4. Kong Ferdinand og de tvende Brödre.

Da Kong Ferdinand af Kastilien en Dag gik ud af Slottet i Palenza, hvor han opholdt sig med sit Hof, blev et ungt Menneske dræbt lige for hans Öine; men Morderen, sem undflyede, kunde man ingensteds fin-

